Tijme/ nu er Dagur Njalprædesins. Latum oss þui gieþa øngvum hindran / uppa þad ad vort Embætte verde ecke lastad. Nelldur aud synum oss sialþa i øllum Nlutum/so sem Guds Þienarar. J myfellre Þolennmæde/ i Nauds kuælum/ i Naskasemdum/ i Þyngslum/i Nuð strokum/ i Myrkvastoþum/ i Upphlaupum/i Erþide/ i Vokum/i Fostum/ i Nreinlijke/ i Vijsdome/ i Bidlundargiede / i Godvilld/ i Nelgum Anda/ i falslausum Kiærleika/i Sañleikans Orde/ i Guds Krapte/ þyrer Nerklæde Riettlætesins/ til hægre og vinstre Nandar. Fyrer Vegsemd og Vansemd/fyrer Vanryckte og gott Ryckte/ so sem Suikarar / og þo Sañorder / so sem okunnuger og þo kunnuger Lijka so sem þeir ed deyia/og siaed/ þad vier lifum. So sem hegnder / eñ eige lijflatner/ so sem Syrgendur/þo jafnañ Glader. So sem Volader/ eñ þo marga auduga giørande. Lijka sem þeir ed eckert haþa / og eignast þo alla Nlute.

ÞEsse Pistill er ein Aminning/ sem Postulinn giør her hier (sierdeilis) Ordsins Þienurum/ad þeir stande med Trw og Dygd i þeirra Kalle og Embætte. 1. Fyrst aminner hañ þa / ad kienna og fram bera kostgiæþelega hañ hreina Evangelij Lærdom um Christum i Søknudunum/ ad þyrer þess

þeñañ Endurlauſnara og Arnadarmann/ þar all er þeir Syndaña Fyrergiefning/ ſem a hñ trwa.
Þeſſa ſtutta Suñu og Jñehalld Evangelij / jnne bindur Poſtuliñ ſijdaſt j fyrerfarande Capitula/ þar hañ ſeiger/ ad Gud hafe hañ / ſem af øngre Synd viſſe ( þad er Chriſtũ) giørt vorra vegna ad Synd(þ er ad einu Forlijkunar Offre fyrer Syndernar) uppa þad/ vier yrdum j hønum þad Riettlæte ſem fyrer Gude gillder/ þad er ad ſkilia ad vier yrdum fyrer Gude Riettlæter / vegna Chriſti. 2. Þar næſt aamiñer hañ þa / ad þeir virde og pryde ſitt Embætte med Gudrækelegu Lyferne/ ſo þad kome ecke fyrer liott Frañ ferde og Synder/ j Ovirding og Forackt/ og verde laſtad af Motſtøndurunũ. 3. Amiñer hñ þa til Poleñmæde/ j allskonar Hørmungum/ og ad hallda faſtlega vid Medkieñing Evangelij Lær doms/ ſo þeir falle ecke þar fra vegna Motlæting añs / ſem Predikun Evangelij plagar opt aſt ad fylgia. Og mæ ſo þeſſe Poſtulans Amiñing/ eirn eñ Riettlega heimfæraſt/ til allra Guds Barna almeñelega/ ad eirn og ſierhuør ſtande trwlega j ſiñe Stiett / og brwke þær Gaafur ſem hañ hefur ødlaſt/ Gude til Dyrdar/ og Naungans almenne legrar Nytſemdar/ og lata ſig ecke þar fra hind ra/ þo hans Embætte mæge vera þungt og ørdugt eda hañ kuñe þeſſ vegna af vondum Møñum nock ur Rangindi lijda.

## Annañ Sunnudag j Foſtu/ Piſtillenn

1. Teſſalon. 4.

Elſkuleger

Elskuleger Brædur/ Vier bidium ydur og aminñu i DROTTENE JESu Christo/ ad so sem þier hafed medteked af oss/ huornenn þier skulud ganga / og Gude þocknast/ so ad þier æ meir og meir fullkomnare verded. Þuiad þier vited huort Bodord vier hofum giefed ydur/ fyrer DROTTenn JESum. Þuiad þetta er Vilie Guds/ydar Helgun/ad þier hallded ydur i fra Frillulijfe/ og huør ydar sem eirn vite / ad eignast sitt Ker/ i Helgan og Heidre/ ecke i Girndarbru na/ so sem Heidingiar/ þeir sem af Gude eck ert vitá. Og þad eingenn nidurþrycke / nie suijke sinn Brodur i nockre Hondlan. Þuiad DROTTenn er hann sem Hefner alls þessa/ sem ad vier hofum ædur fyrre sagt / og ydur vottad. Þuiad Gud hefur ecke kallad oss til Ohreinleiks/ helldur til Helgunar.

EPter þad Postulenn hinn H. Pall / hafde framsett fyrer syna Tilheyrendur i Tessalonica/ heilsusamlegast Lærdom/ um sanna og Sæluhialplega Truw/ þa aminner hann þa/so vel sem alla adra/til Endurnyungar Lijfernesins/ huør ed alleijd klagar ad epterfylgia Riettlætingu Truwarennar/ og er Gude mieg kærgleg/ i hia þeim sem Endurfædder eru fyrer Truna. Fyrst aminner hann þa hier/ad ydka og stunda Lærdom H. Evangelij

og adrar

og adrar Gudrækelegar Rokaner/ aþ huǵrium Gu ds Barna Tala kañ ad aukast og vidhalldast.

Par næst beþalar hū þeim/ ad flya og fordast Horaner og allañ Ohreinleik/ aþ huǫrium Gud ve rde uppegnduir til Reide/ og hrædelegs Hegndar Straffs/sem fylger a epter/fyrer oleiþelegar Gyr nder og saurugañ Lifnad/ sem noglega bevijsast aþ Epterdæmum Israels Sona/ og jaþnvel Heid num Historium. Ad sijdustu æminner hann sierhuǫrn/ til Rieckvijse og sannsynelegs jaþnadar j ǫllum Samskiptum/Kaupum og Sǫlum/ og añ are þuilijkre Hǫndlan / sem vor samchristeñ xtaa unge kañ opt þurþande fyrer ad vera.

# Pridia Suñudag j Fǫstu / Pistilenn skriþar S. Pall/ Epheſ. 5. C.

Elskuleger Brædur/ Eo vered nu Guds Epterþylgiarar/ so sem elskuleg Born/ og ganged j Astsemeñe/ lyka so sem ad Christus heþur oss elskad/og sig sialþañ wtgieþ ed fyrer oss til Forniþæringar og Offurs Gude j Sætleiks Ilm. Eñ Frillulijfe / og allann Ohreinleik edur Agyrnd / læted ecke neþnast a medal ydar/so sem Heilogum hæþer/skam atleg Ord og þyflislegt Nial eda Kieskne/huad ydur heyrer ecke/ helldur mykiu framar Pack argiord. Huiad þad skulu þier vita/ ad eing eñ Frillulijfismadur/ edur ohreiñ/ eda ægiarn

huer ad

(huor ad er Skurdgoda dyrkare) hefr Arfteku i Ryke Christi og Guds. Læted ongvan villa ydur/ med onytsamlegum Fortolum / þui fyrer þad kiemur Reide Guds yfer Børn Vantrwarennar. Af þui vered ecke Hra Hluttakarar/ þuiad þier vorud fordum Myrkur/ enn nu erud þier Lios j DROTTne. Ganged so sem Børn Liossens/ þuiad Avøxtr Liossens er allskyns Godgyrne/ Riettlæte og Sanleike.

POstulenn Pall aminner hier ecke einasta / syna Tilheyrendur j Epheso/ helldur og eirnenn alla þa sem vidtekid hafa Christelegre Trw/ ad þeir skule med Endurnyungu þeirra Framferdis / og godum Verkum / auglysa og Vitna fyrer øllum Mønnum/ um Riettlæting Trwarennar / af huørre þeir sieu Fridþægder vid Gud / vegna medalgang grans JESu Christi/ wt af Nadenne.

Fyrst upphuetur hann þa til Nauungans Elsku og Kiærleika/ epter Dæme sialfs Guds Fødurs/ sa ed af sinne storu Elsku hrærdest til ad Myskuna Mannlegu Kyne/ og senda þui sinn Eingietna Son til eins Endurlausnara / sa hønum giørdest hlydenn/ ad hann Fornfærde hønum sig sialfann Gude Fødur til eins forlykunar Offurs fyrer oss/ so hann kiæme oss j Sætt og Nad vid hann.

Þar næst aminner hn þa til Hreinferdugs Lyfernis/ og ad þeir skule flya Frillulyfe / og ørueugann Lifnad/ so og eirnenn skammlegar Munnræður/ so sem er Klæm/ edur Hædunglegt Samtal/ Hæd-

ne/ Sick

ne/ Gickaraskapur/ Hegomahial/ þui þad sie fyr er Christna Mañ osæmelegt. J þridia mata/ tekur hañ þeim vara fyrer Agyrndeñe/ huør sa hañ kallar hier Afgudadyrkan/ af þui ad Agyrndeñ forviller z blindar so Mañsins Hugskot ad þad Trwnadartraust/ sem hañ a ad hafa af Gude/ þad setur eirn Agyrndarkroppur uppa skapadar Skiepnur. J fiorda mata tekur hañ þeim vara fyrer/ ad þeir skule ecke lata Ogudleg añ Selskap/ draga sig edur tæla med onytum Fortølum/ fra ydkun sañrar Gudrækne og Christelegra Dygda/ huør Ogudlegra Mañа Skare/ plagar ad gleyma þeirre strøngu Guds Reide/ sem a epter kiemur alle Ranglæte/ og giøra miøg lyted wr þui/ huørsu stør og sugvirdeleg/ ad Syndenn sie fyrer Auglite DROTTens.

## Midføstu Sunnudag/ Pistill. Gal. 4.

ESkuleger Brædur/ Seiged mier/ þier sem under Logmalenu villed vera/ Hafe þier ei heyrt Logmaaled? Huiad skrifad er/ þad Abraham hafde tuo Sonu/ eirn af Ambatteñe/ og annan af þeirre sem Frials var. Eñ sa sem af Ambatteñe var/ er fæddur epter Holldenu. Eñ hñ af þeirre Frialsu er/ er fyrer Fyrerheited fæddur/ Huør Tid ed hafa añarlega Meining. Huiad þetta eru þau tuo Testamenta. Eitt a Fiallenu Sina

þad er

Þad er til Þrælkunar fæder/ huørt ad er Agar/ Þuiad Agar heiter j Arabia Fialled Sina/og er Aþoſt vid hana/ſu nu þeñañ Tijma er Jeruſalem / huør ed er j Þrælkan med ſijnum Børnum. Eñ hin Jeruſalem ſem þar uppe er/ hun er ſu hin Frialſa/ huør ad er Moder allra vor. Þuiad ſkrifad er. Vertu glød þin Obyria/ þu ſem ecke fæder/ briotſt fram og kalla/ þu ſem ecke ert þungud/þuiad hün Einſamla hefur mykl u fleyre Børn/eñ ſu ſem Mañen hefur. Eñ vier kiærer Brædur/erum Fyrerheitiſins Syner/ epter Jſaach/ og lijka ſem j þañ Tijma/ ad ſa/epter Holldenu var fæddur/ ofſokte þañ ſem epter Andanum var fæddur/ ſo ſkiedur þad nu eirneñ. Eñ huad ſeiger Ritningeñ? Rek burt Ambattena / og Son heñar/þuiad Ambattareñar Sonur ſkal ecke erfa med Syne hennar ſem Frials er. So erum vier nu/ kiærer Brædur / ecke Ambattareñar Børn / helldur frialſrar Kuiñu.

AVnduerdlega j þeſſum ſama Capitula / framſetur Poſtuleñ/ſkyrar ꝛ auglioſar Bevijſingar um þad/ ad vier ſieum elldungis fryer og Frialſer vorder undañ þunga Moyſis Løgmals. Eñ ſudar j Capitulanum / edur þeſſa dags Piſtle/ſetur hañ oſſ fyrer Siooner/ſo ſem j einum Speigle/ eñ nu hid ſama/ og þad under eirne andlegre þydingu/

ingu/ edur Epterlijkingu/ sem þann tekur af þeim tveimur Kuinnu Forfødursins Abrahams/ su eina var Ambattenn Agar/ af hvørre Jsmael var fædd ur, an Guds Fyrerheitis. Enn hin ønnur su Frialsa Sara/ sem af sier fædde Jsaach epter Fyrerheit enu. Og vill Postulenn hier med merkiast lata/ hvad Løgmalsins verkan sie j Mannanna Samvit skum/ sem er/ Prældomur/ Bølvan og eilijf Fyr erdæming/ þui Løgmaled er þ. Ok sem Fedurner gatu ei bored/ Act. 15. Sømuleidis hvad Evangelium verkar/ sem er Frelsan fra Eilijfum Kuølum/ Løgmalsins Bølvan / Synd og For dæmingu. Þuiad/ lijka so sem Ambattenn Agar/ fædde þann Prælborna/ edur Prælenn/ epter Hollð enu/ an Fyrerheitis / so var Løgmaled utgief ed a Fiallenu Sina (sem j Arabisku Tungumale kallast Agar) hvørt ed Gydingana giørde Præla tilknyandi og skylldande þa/ annad hvørt til Hlyd nennar e þess uppfyllingar/ ellegar og so til Straff sins an Fyrerheitesins um þa Nadarsamlegu Sy ndanna Fyrergiefning. Og lijka so sem Sara/ su Frialsa/ ølldrud og Ofrioßøm/ fædde af sier Jsa ach/ sem epter Guds Fyrerheite var sa Frialse/ og Erfinge Abrahams. So giører og so Christe leg Kyrkia/ sem hier kallast Himnesk Jerusalem/ og fyrst var samansafnud j Jerusalem fyrer Post ulana / þar hun gietur af sier frials Børn / og Erfingia til eilijfs Lijfs / epter þui Fyrerheite/ sem Gud giørde vid Abraham j Jsaach.

Þar fyrer/ lijka so sem Sara er Frials og hennar Sonur Jsaach / so kienner og so Postulenn hier j þessare andlegre Þijdingu/ ad þeir j Galatia/ og

aller

aller adrer Riettrwader / sieu wt aß Evangelio Frelsader ßra Løgmalenu / og þess Bølvan / og sieu Erßinglar Eilyßs Lyßs/ huar uppa han̄ heim ßærer Spadom Esaia/sem hliodar um Samansøß nun og Aukning Christelegrar Kyrkiu j øllū Heime/a medal Heidingia. Þar næst er auglióst wt aß Epterdæme Jsmaels/ sem oßsokte Jsaach ad Christeleg Kyrkia/ sie alltyd Krosse og Oßsokn um underworpenn aß þølskum Brædrum/ Falsspamönum og Tyrkiūm. Og so ad sydustu huggar Postulen̄ hier Guds Søßnud med Fyrerheitenu epterkomande Arßleißdar eilyßs Lyßs. Enn skielßer Oßsækendur Christninar / med hotan Straffs og Hegningar/ edur og so ßullkomenar burtkøstunar/ epter Dæme Jsmaelis / sem aß Gude vard burtkastadur/ og med øllu Fordæmdur.

## Sun̄udagen̄ epter Midføstu/ Pistillenn

### Hebreos 9. Capitula.

Kiærer Brædur. Christur er komen̄ þad hn̄ sie Byskup epterkomande Audæßa/ ßyrer stærre og algiørdare Tialldbud/ þa sem ecke er med Hondum giord/ þad er/ þa sem ecke er þessarar Byggingar / ecke helldur ßyrer Hafra Blod nie Kalßa/ helldur er han̄ ßyrer sitt eiged Blod eitt sin̄ jn̄geingen̄ j hid Heilaga/ og ßan̄ eilyßa Endurlausn. Þui eß Uxan̄a og Hafran̄a Blod/ og Askan̄ Kuigg-un̄ar ædreißd/helgar hina Saurugu til Holld-

fins Hreinsunar / huersu myklu framar/mun þa Blodeð Christi ( sem sialfan sig hefur an fleckunar fyrer helgann Anda Gude Offrad) hreinsa vorar Samvitsku af daudlegū verk um/ til ad þiona Gude lifanda! Og þar fyr er er hann eirn Medalgongumadur hins Nya Testamentis / fyrer þann Dauda sem skiedur er / til Frelsunar wt af þeim Yferstrodslum/ (þær sem under hinu fyrra Testamentenu vo= ru) So ad þeir sem kallader eru/ medtake ei lijfa Arfleifd Fyrerheitesins.

HJer wtmælar Postulenn / þad Kiennemannlega Embætted Herrans Christi/ j huørtu hann fyr er, sitt eiged Blod / Endurleyste sijna Christelega Kyrkiu/ fra Synderie og eilijfum Dauda / enn wt vegade Kiettlæted/sem fyrer Gude gillder/ og Ei lijfr Lijf/ z situr nu til Gudo Fødurs hægre Hand ar a Himnum/ og bidur sinn Fødur fyrer synum Børnum og Sønnude. Nu þo Postulenn samliike hier/ þui Kiennemannlega Embættenu Chri sti/ vid þann Levitiska Kiennemannskap/ a Døgum Gamla Testamentesins / þa syner hann þo ei ad sijdur/ad þar se mykell Greinarmun: j millū gió rande/ huør j þessu epterfylgiande er jnnefalenn.

1. Christur epter sinne Persoonu/ var sialfur og sannur Messias / sa fyrerheitne Endurlausnare Mannlegs kyns / sann Gud og sannur Madur. Enn sa ædste Prestur j Gamla Testamentenu var ein asta sliettur Madur/og ein Fygura z Fyrermynd

ann uppa

an uppa þañ ſaña og ædſta Høfudpreſt Herrann Chriſtum. 2. Guds Sonur Herrañ Chriſt ur Offrade þui dyrmætaſta Offre/ ſem var ſialf um ſier (huar af Guds Reide j giegn Syndenñe Fr idſtillteſt) og Endurleyſte ſijna Chriſtelega Kyr kiu med ſijnu eigeñ Blode. Eñ Gamla Teſtamen teſins Kieñemadur/ Offrade þreinum Dyrum/og giørde Forlijkun fyrer Folked/med þeirra Blode.
3. Chriſtur ablade og wtvegade ſiñe Chriſtne/ med ſiñe ſialfs Offran/ þad er/ ſiñe Pijnu og Dau da/þad ſaña Eilijfa Riettlæte. Eñ Gamla Teſta menteſins Kieñemadur / giørde alleinaſta Lijkam lega Forlijkun fyrer Syndenum. 4. Kieñe mañſkapureñ Chriſti varer Eilijflega / epter þui ſem David ſeiger/ Pſalm. 110. Þu ert Kienne madur ad Eilijfu / epter ſkykan Melchiſedech. Eñ Kieñemañſkapz Gamla Teſtamenteſins endteſt ei leingur/ eñ til þingadkomu Meſſiæ/og er ſijdañ aflagdur/ og med øllu endadur. 5. Amiñ er oſſ Poſtuleñ/ ad vier ſkulum med Truñe/ad oſſ Fadma og til eigna JESu Chriſti Fornfæring og Forlijkunar Offur/ ſo ſem hañ ſialfur giører j 5. Capitula þeſſa Piſtils ſeigiande. Med þui vt er høfum eirn Biſkup / ſem mykill er/huør til Himens er fareñ / ſo lætum oſſ hallda vidurkieñ ingune / og gøngum med Hugarhreyſte til þeſſ Nadarenñar Stols/ ſo ad vier ødlunſt Myſkun ſemte og fiñū Nad/a keim Tijma/ſem vier þurfū Fulltijngis vid. Ad Sijduſtu aminñer hñ oſſ ad þiona Gude Lifanda/audſynande hønum Þack læte/ Hlijdne og Vndergiefne/ſo vier vegna vorra margfalldu Miſgiørda / ecke miſſum þeſſa ſtoru

Guds Ráð/ og dyrmæta Forþienustu JEsu Christi vors Endurlausnara.

A Bodunardag Mariæ/ sem er Gietnadar Dagur JEsu Christi vors einka Lausnara.

Pistilen skrifar Esaias. 7.

A Þeim Dogum/ Talade DROTTEN til Achas/ so seigiande. Bid þier eins Teikns af Gude DROTTNe þijnum/ huort þad er nidre j Underdiupū/ edur a Hædū uppe. Eñ Achas sagde. Eige vil eg þessa beidast/ uppa þad eg freyste ecke DROTTenß. Þa sagde hañ. Nu vel/ þar fyrer heyre þier af Huse Davids. Huort er ydur þad vorlijted ad þier giored Mōñunum Angur/ þad þier vilied einñ eñ Angra miñ Gud? Fyrer þann skulid þier DROTTEñ sialfur giefa ydur eitt Teikn. Siaa þu/ ad ein Jomfru mun Barn gieta/ og mun eitt Son Fæda/ og hañ mun hun kalla Emanuel. Smiors og Hunangs mun hañ neyta/ So ad hañ kuñe ad forleggia hid vonda/ og ad utvelia hid goda.

MIkelegañ z miøg epterteektaverdañ Spadom hins heilaga Esaiæ/ hefur þesse Pistill inne ad hallda/ um þañ fyrerheitna Messiam/ huør/

þañ

hūn þ ſpaer z ſeiger/ uppa ſig mune taka Mañdom lega Náttúru j Kviþe eirnrar Meyar/ hüad ſkie munc þram yþer almeñtlegt edur vanalegt Tollo hlaup Náttúruñar / eda med yþernáttúrlegum hætte. Med þeſſu Furduverke / þeirrar Þar ſamlegu Fædingar Endurlauſnarans Heimſins/ ſyrkter og ſtadþeſter Almáttugur Gud/ Trw þeſſ Vantrwada Achas Juda Kongs/ um Sigurvin ing a möte Rezin / Kongenum aþ Syrlande/ og Pekah Kongenum aþ Jſrael/ſem ſaman hǫþdu la gt ſitt Strijds þolk/ til ad eydeleggia Borgena Jeruſalem. En ádur þyrerþram Straffar Spámadureñ Aþgudadyrkan/Vantrw og Hræſne Kongſins Achas/ ad þar Gud haþe ſkipad hǫn um/ad beidaſt eins Teiknd aþ ſier / uppa þa Sig urvining og Frelſun/ſem hañ munde veita hǫnum En hañ ( Kongureñ ) þorſomte þad / og vilte ecke Gud þar um bidia/ og j þañ mata þorſmáe hans ſtyrk og adſtod/ helldur treyſte uppa ſijna Kong lega makt/ og Mannlega Krapta. Þar þyrer þar ed þeſſe Ogudlege Kongur Achas þorſmáde Guds Fyrerheit / Þa ſamt audſijnde DROTT eñ ei ad ſijdur þeim Kieterwüdu ſijna Nád / og gaþ þeim eitt Teikn / ecke einaſta uppa þa lykam legu Frelſunena/ helldur og eirneñ/ uppa þa and legu þra Syndenie/Diöþlenum / Daudanum z Ei lyþer Fyrerdæmingu / og þyrerheiter hier / þyrer Spámañſins Muñ/ ſialþum Meſſia/ edur Heims ſins Endurlauſnara/ og ad hañ ſkule med einum Dáaſamlegum hætte/ án Kallmans tilverkunar/ þædaſt aþ Kyþe eirnrar Meyar/ſa ed ſijna Chriſt ne ſkule Frya og Frelſa / þra eilijþum Dauda og

 ollu

øllu jllu. Og þess vegna fyrerseiger hier Spaamadurenn/ ad Gud mune hiælp og Frelsan veita Gydingalydnum/ fra Strijde og Bardaga þessara Konga/ so Gydingarner lyde ecke under Lok/ af hugrium sa fyrerheitne Heimsins Endurlausnare skyllde fædast/ epter þui sem Guds Fyrerheit þar um hliodudu.

## A Palma Sunnudag/ Pist. Phil. 2.

Elskuleger Brædur. Huør og eirn sie so sinadur sem JEsus Christus var. Huør þo ed hann være Guds Mynd/ stærde hann sig þar ecke af/ Gude lijkur ad vera/ helldur mynkade hann sig sialfann/ og tok a sig Mynd eins Þions/ vard lijkur odrum Mønnum/ og ad Hegdan fundenn sem Madur. Lijtelætte sig sialfann/ og vard hlijdenn allt til Daudans/ Jaa/ allt til Krossens Dauda. Fyrer þui hefur Gud upphafed hann/ og hefur giefed honum Nafn/ þad sem yfer øllum Nøfnum er. So ad j Nafne JEsu skulu øll Knie sig beygia/ sem a Himnum/ og a Jordu og under Jordunne eru. Og allar Tungur skulu vidurkienna/ þad JEsus Christus sie DROTTenn/ til Dyrdar Guds Fodurs.

J þessa Dags Pistle framsetur Postulenn merkelega Aminning øllum Guds Børnum til upp

huatningar

huatningar/ad stunda audmykt og Lijtelæte/fyr er huørtar Dygder / Eining Christnennar allra hellst/ eykst og vidhelldst) huørria hann wedregur af Eptterdæme sialfs Guds Sonar JEsu Christi/ sa ed vegna vor / hefur audvirdt sialfann sig/ þar ed hann tok uppa sig Manndomlega Natturu/ sem allshattcudum Eymdum og Breyskleyka var undervorpenn/ j huørre hann leid þann smannarlega Krossens Dauda/ so hann feinge Endurleyst þad fortapada Mannlega Kyn. Og so sem þad/ Herrann Christur er epter þessa fordanlega Lijtelæging / af Fødurnum upphafenn / til stærstu Vegsemdar og Heidurs / so mune og eirninn ikke vid hann Christne/huør j þessum Heime er forsmaad z undertryckt/sem er/ ad hann mune hafa um sijder dasamlega Frelsa/ og epter þetta lided Lijf / begæfa hana med tilhlydum gledelegum Verdlaunum.

Huørtveggia þetta Eptterdæmed Guds Sonar/ bæde hans Niddurlægingar og hans upphefdar/ætte ad ahuetia Guds Børn j Christelegre Kyrkiu/ til Lytelætis og Poleinmæde/ so Fridseme og Eining være og vidhalldest j Christnenne / j huørre sa Himneske Lærdomur þess H. Evangelij / mætte riettelega þeckiast og vidurkiennast / og Guds H. Napn Virdast z Vegsamast af Mannlegu Kyne.

## A Skyrdag/ Pistilenn skrifar S. Pall/ I. Corint. 11.

Elskuleger Brædur. Þui þad/huad eg hef af DROTTne medteked/þad hef eg ydur feinged. Af þui ad DROTte

eñ JEsus a þeirre Nott er hañ var sviken/ tok hañ Braudet/giørde þacker/braut þad og sagde. Taked og eted / þetta er miñ Lykame sa fyrer ydr verdur giefeñ/giøred þad j mijna Miñing. Sømuleidis og eirneñ Kaleikenn epter þad hañ hafde Kvølldmaaltijdena eted/ seigiande. Þesse Kaleikur er nytt Testament uñ j mijnu Blode. Giøred þetta so opt siñ þier drecked þar af j mijna Miñing. Þviad so opt sem þier eted af þessu Braude/og drecked af þessum Kaleik / skulu þier kuñgiøra þar med Dauda DROTTens/ þangad til hann kiemur. Hver hañ etur nu af þessu Braude og dreckur af þessu Kaleik DROTTens O verdugur/ sa er sekur vid Hollð og Blod DROTTens. Eñ hver Madur profe sig sialfe ur/ og ete so af þessu Braude/ og drecke so af þessum Kaleik. Þviad hver hañ etur og dreckur overdugur/ sa etur og dreckur sialfum sier Dom/giørāde ecke Greinarmun a DRottens Lykama.

I þessum Pistle/ høfum vier þessar epterfylgiande Kryngumstødur ad athuga.

1. Hvør þa heiløgu Kvølldmaaltyd/edur Sacramentum Alltarisins hafe Innsett/ sem er sialfur Guds Sonur JEsus Christur / sa ed kallast Guds Kraptur & Guds Speke. 1. Cor. 1. Þar ſ

er tilheyre

er tilheyrelegt / ad vier helldum oss fastlega vid
þesse Innsetningar Ord / Kuølldmaaltydarennar
Herrans Christi/med Trwnne/og hyktum þar huør
ge pra / þui ep þier blyþed vid mjna Rǽdu/ ka
eru þier mjner sanner Lǽresueinar/ Joh. 8.

2. Tijman a huørtum hann innsette þessa Kuølldmaaltyd/ sem var epter þad hann hafde Paska lambsins neytt/med sijnum Lǽresueinum/a þeirre Nott/sem hann var suiken af Juda Jscarioth/ litlu fyrre en hann utgieck af Borgene Jerusalem i Alldengardenn Getzemane/ til sijns Dauda strijds og sinnar Pijnu. 3. Huad JEsus Christus giefe oss og veite/ J / med / og under þui helgada Braude og Vijne i Sacramentenu/ sem er/ sa same hans sannarlege Dyrmæte og Verulege Lijkame/ sem fyrer oss var i Daudann giefenn/ og þ hans sama sannarlega/ Dyrmæta og Verulega Blod/ sem hann uthellte i sinne Pijnu og Dauda a Krossinum/ sem Postulenn Pall seiger 1. Cor. 10. Brauded huørt vier brioottum/ er þad ecke Hlutteknning Christi Lijkama? Og sa blessade Kaleikur huørn vier blessum/ er hann ecke Hlutteckning Christi Blods? Þesse Kaleikur er Nytt Testament i hans Blode / þad er / hann giefur oss sitt eiged Blod / med huørriu hann styrkte og stadfeste hann nya Sattmaala/ edur þad nya Testament / lyka so sem þad Gamla Testamented var med Blode Vxanna og Hafranna stadfest/ þeirra sem slaatrader og Fornfærder voru / Exod. 24. Huørier voru Fyrermyndan uppa Christum/ sem er vort Paaska lamb/og fyrer oss var Offradur/ 1. Cor. 5.

4. Bydur og befalar þier Postulenn øllum Mønn

um/ad tilreida sig & bwa verduglega under nÿtteckn ing þessa H. Sacramentis/ huad sierdeilis er jnneþal ed j sannre & hræsnislausre Ydran & Apturhuarþe fra drygdum Syndum / huørre samteingd a ad vera sønn og liþande Trw / a Forþienustunne JEsu Christi/ og alvarlegur Asetningur til Endurnyungar Lÿþernesins/og nyrrar Hlydne. Þviad/ huad osæmelegt er þad/ad ganga til Bords hia einu mykelsháttar Herra og Konge/med Oþueg num Høndum/ j saurugum jllaluchtande Klæd um? Huad myklu sydur/ skyllde nockur Dyrþ ast/ otilreiddur/ad oprostudu synu Framferde/og an Ydranar/ad ganga til Guds Bords/ & Med tekningar þessarar heiløgu og Himnesku Maaltyd ar/ j huørre DROTTen allra Drottna JEsus Christur/ giefur oss Holld sitt og Blod ad eta & drecka? nema hann ædur þyrre huor sig og hreinse j Tarum sannrar Ydranar / aþlegge vidbiodleg ar Flyckur Syndarennar / og jklædist Guds Her skrwda/ Eph. 6. Colos. 3.

## A Langa Friadag/ Pistilenn skrifar Zach arias/ 12. & 13. Cap.

HEtta seiger DROTTenn Gud / Eg mun wthellä yþer Hws Davids/ & alla Byggendur j Jerusalem/ Anda Nadar ennar og Bænarennar. Þviad þeir munu horþa a mig/ huørn ed þeir haþa stunged j giegnum. og þeir munu grata yþer honum/ so sem Ein

giefnst

giefnum Syne/og ſprgia/ſo ſem þeir plaga ad ſprgia j Dauda Frumgietens. A þeim Del- ge mun vera eirn Harmr myfill j Jeruſalem/ og ſagt mun verda vid hañ. Quad er þad ÿþr er Saar/ ſem ad eru j Hendum þijnum? Og þa mun hañ ſuara þeim. Þeſſum Saarum var eg ſærdur/ j Huſum þeirra ſem mig elſk udu. Þu Sverd / giør þig reidubwed yfer miñ Hyrder / og yþer þañ Mann ſem mier er nakomenn/ ſeiger DROTTEñ allsheriar. Slaa þu Hirdereñ/og Sauder Hiardarennar munu ſundurdreyfaſt.

Vpphafe þeſſa heilaga Piſtils/høþum vier fyrſt Jad athuga/ huørſu ad Meſſias edur Heimſins Endurlauſnare JEsus Chriſtur / loþar og fyr erheiter (fyrer Spamañſins Zachariæ Muñ) ad giepa og rijkuglega Vthella/þeim goda H. Anda ecke alleinaſta yþer ſijna heilǿgu Poſtula og Ord ſins framberendur/ helldur og eirneñ/yþer alla þa ſem fyrer H. Skijrn og Chriſtelega Trw/verda ſañer og lifande Limer Chriſtelegrar Ryrkiu/a Nya Teſtamenteſins Døgum/ huør heilagur Ande ſkyllde jñſigla Guds Naad med þeim/og þa j Tr wñe ſtyrkia og ſtadfeſta/um hans Myſkunſeme/e verka j þeirra Hiørtum/ eina alvarlega/heita og breñande Bæn/ ſem Poſtuleñ Pall ſeiger/ Epheſ. 1. Þier erud Jñſiglader med heilǿgum Anda Fyr erheiteſins/ſa ſem er Pantur vorrar Arfleifdar til vorrar Saaluhiaalpar. Og til Rom. 8. Seig

er ſame

er same Postulu/ ad hl. Ande hialpe vorum Breyskleika/ og bidie fyrer oss med ouumrædelegre Andvarpan. 2. Þar næst framsetur Messias JEsus Christur hier eitt Spadom um syna Pynu/ hvørsu þeir forherdtu Gydingar munde med Nøglum j giegnum gráfa hans Hendur z Fætur/ og á Kross-ið niðurnegla/ og so hans Sydu med Spiote opna / tillögdum marghattudum Spottyrdum og Bryxle j hans Krossfestingu z Dauda. Huad þegar Guds Børn j sannre Ydran og med Trwarennar Augum alyte / þa mune þad afla þeim Hiartans Hrygdar / og þau yfer hans Pyst um/ Kuøl og Krossfestingu hiartanlega Grata/ og sier þad jnnelega til Hiarta gaanga lata/ eins og seigest um Tilheyrendur S. Peturs/ ad hans Predikun ut af Pynu og Dauda Christi / hafe geinged j giegnum þeirra Hiarta/ Post. Giørn. Bok 2. Cap. Edur so sem Forelldrar plaga ad Grata miøg Mædulega/ þa þau missa sinn einasta Son um hvørn þau hefde fulla Von hafft/ ad hann munde/ þeim og þeirra Slecke verda (ef hann eilendst hefde) til upphefdar/ Adstodar/ og æskelegrar Glede/ lyka sem sa gamle Tobias og hans Kuinna Anna/ þa þau meintu/ ad þau (kann skie) hefde mist sinn Son Tobiam/ a hans Reysu z søgdu/ O minn Son O minn Son/ þui sendum vid þig j burtu fra ockur/ sem ert ockar Glede og einka Huggun j ockar Elle/ Hiarta ockar og ockar Erfd? og hans Moder villde sig ecke Hugga lata/ Tob. 10.

3. Jafnleidez Prophetinn Zacharias j þessum Spadome um Christi Pynu/ hans Himneska Fødur Almattugann Gud / sem være hann so talande

á Pynu

a Pijnu Tijmanum Chriſti/ ad Sverded/ þad er/ Opſokner/ Pijna og Daude ſkyllde upphefia ſig og ganga yfer hans Eingetenn elſkulegann Son JEſum Chriſtum/ ſem hann hafe giefed og ſende j Heimenn/ ad vera eirn einka Hirder allra Ydran de og Trwadra Manna/ og þegar þetta Sverded ſlær þennann Hyrderenn/ þad er/ þa JEſus gange til ad lijda ſijna Pijnu og Dauda/ þa mune Sauderner (þad er hans Læreſueinar) fra hønum ſundurdreifaſt/ flya/ og hann einann epterlaata/ ſo ſem og eirnenn ſkiede og leſa maa/ Matth. 26. Marc. 14. Capit.

# A Paaſkadagenn/ Piſtelenn
## ſkrifar S. Pall 1. Corinth. 5.

KJærer brædur. Fyrer þui hreinſed j burt hid gamla Surdeiged / ſo ad þier ſieud nytt Deig/ lijka ſo ſem þier værud oſyrder. Þuiad vort Paaſkalamb er Chriſtus fyrer oſſ Offradur. Fyrer þui hølldum vora Paaſka/eige j gamla Surdeige / og eige j Surdeige Illſkunnar og Prettvijſennar/ Helldur j ſætu Deige Skyrleikſins og Sannleikſins.

ÞEſſe Piſtill hefur jnne ad hallda/ eina alvarlega Aminning z Vidvørun/ ſem Poſtulenn Pall giører ſijnum Tilheyrendum j Borgenne Corintho/ ad þeir ſkule fra ſier og Søfnude Guds/ burtreka/

þann

han Hordomsman og Blodskamara / sem til sijn hafdi ecked/ sijna eigen Stiupmodur/sem var Eck ta Kuinna hans Fødurs/huørn þeir skule ecke hia sier lyda/ þar han sie bordiarþadur Timur a Lijf Kama Christi Safnadar. Enn annars/ þa er j þessum Pistle jnnfalenn/ ein almennleg Aminning/ ad þeir j Corintho skule ætstunda nya Hliodne/og Lifnadarens Betrun/ so og ydka allshattradar Dygder/enn fordast Synder og Glæpe/af huørium Saal og Lykame binnest ad vera bleckud og Saur ug j Guds Auglite. Og þessa aminning bramset ur Postulenn j andlegre Þydingu / huørra han vꝛ dregur af lyktingu osyrdra Brauda/ huør Gyding arner pløgudu ad eta/ þa þeir neittu Paskalamb sins/ þuiad so sem þan voru sæt/ hrein/ og omein gud af no kru Surdeige/so vill han ad þeir Chri stnu (sem þyror Blod þess sanna Paskalambsins Christi/ eru riettlater vordner/ og af Syndunum hreiner) skule þa brammrcigia/nytt og heilagt Lijf erne auglysa/ þa gømlu Natturunnar Spilling burt hreinsa/ sem z ctrnen saurugu og Jardnesku Giartans Tilhneygingum bra sier kasta/æsamt m3 þeim gamla Adam/sem er Synden/ enn skyckia sier epter þeim Nya/ so sem han seiger Rom. 13. Jkl ædist DROTTne JESu Christo/z ræked Hollð id/ þo so/ þad bremie ecke sijnar Gyrnder.

## A Annan Dag Paaska/ Pistillen j Gior, inga Bok Postulanna 10. Cap.

A þeim Dogum/ lauk Petur upp sijnum Munne/z sagde. Nu reine eg j sannleika/ þad

þad ecke er Mañgreinarmunur hia Gude/helld ur a ollu Folke/sem hañ ottast/og giorer Rictt vyse / þa er honum þocknan. Þier vited aþ þeirre Predikun / sem Gud sende til Israels Sona / bodande þeim Frid þyrer JEsum Christum (huor ad er DROTTEñ allra) aþ huørre Predikan/ Rykted wtbarst um allt Gyd ingaland/ su er upphoþst þyrst i Galilea/epter þa Skijrn sem Johañes Predikade/ þad Gud heþde smurt JEsum aþ Nazareth med helg- um Anda og Krapte / huer ed um kryng gieck giørde gott/ og græddi alla þa sem aþ Dioþ lenum voru underþryckter / þuiad Gud var med honum. Og vier erum Vottar als þess sem hñ giørde a Gydingalande/ og Jerusalem/ huorn þr Aþlijþudu/og hengdu uppa Tried. Hañ sama uppvakte Gud a þridia Dege/og liet hañ openberañ verda/eige ollu Folke/helld ur oss/sem ædur vorum hans Vottar aþ Gu de/ vier sem ætum og druckum med honum/ep ter þad hañ var uppriseñ þra þeim Daudu. Og hañ baud oss ad Predika Folkenu/og Vit ne um bera / þad hañ være sa / sem skyckadur er aþ Gude / Domare Liþendra og Daudra. Aþ þessum bera aller Spæmeñ Vitne/ad all

er þeir sem a hañ trwa/ skule fyrer hňs Nafn medtaka Syndaña Fyrergiefning.

EPter þad/ Postuleñ heilagur Petur/ hafde ut af eirne andlegre Syn ( j huørre hønum byrt ust Villudyr og Skridkvikinde / og heyrde þar jafnframt eina Rødd sem sagde/ ad hann skyllde ecke kalla þad ohreint sem Gud hefde helgad )kom ist til riettrar Þeckingar/og Reinslu þar um/ ad lyka skylldu Heidingiar ( huørier ecke voru um̃skorner ) tilheyra Rykenu Christi/og niotande ve rda hans Velgiørninga / huad hañ hafde þo ecke adur til forna vitad/ þa framsetur hañ þessa Predikun/fyrer þeim Heidnà Manne Cornelio / med huørre hañ bevyssar/ hañ sama JEsum af Nazareth/ sem Gydingarner Krossfestu/ hañ være sa sañe fyrerheitne Messias/og Mañkynsins Frelsare/ huad Herrañ Christur sialfur ecke alleinasta auglyste j synum Predikunum/ og med marghattud um Kraptaverkum/helldur og eirneñ Vitnar þar um Johañes Skyrare/ og aller Spameñ. Þar fyrer Jatar og stadfester Postuleñ hier/ad þetta sie þad einasta Rad z besta Adferd/ ad ødlast Vek ferd Saluhialparañar / Syndaña Fyrergiefning Riettlætted og Eilyft Lyf / ad Meñ skule a þeñañ Krossfesta JEsum trwa/ sem upp sie risenn fra Daudañ/ og þeir meige sig þar uppa reida/ ad fyrer saker þessa Endurlausnarans/ sie/og ver de Gud þeim Nadugur og Myskunsamur. Og þui framsetur Postuleñ hier/eitt merkelegañ Lærdom þar um/ huør ad sie Christur / sem er/ sañur Messias/ er Gydingunum var fyrerheiteñ / huør

ier sieu

ter sieu hans Velgiørningar / hugrt og hutlykt sie hans Ryke/ og hugrnū vier kuñum hans Velgiørn, inga hluttakande ad verda/sem er/fyrer Truna/an alls Manngreinaralits. Eñ aminder hier og eirnū Meñina/ad þeir skule þeñañ Medalgangara med Trunne ad sier taka/og sig þar uppa reida og forlaata/ ad fyrer hañ fae þeir og ødlist Naad og Myskun af Gude.

## Þridia Dag Paaska/ Pistilliñ j Giørninga Bok Postulaña 13. Cap.

A Þeim Døgum/ Stod upp Paulus/ og sagde til Gydingaña. Þier Meñ god er Brœder/ og þier Syner Abrahams Slektis / og þeir sem ydar a millum Ottast Gud/ Ydur er þetta Hialpræðis Ord sendt. Þuiad þeir sem biuggu j Jerusalem/og þeirra Hofdingiar/med þui þeir þecktu hañ ecke/ nie Spamaña Rædurnar (huoriar lesnar vera da huørn Huottdag) hafa þeir med sijnu Doms atkuæde uppfyllt. Og þo þeir fynde eing va Daudasok med honū / beiddu þeir af Pilato ad hañ liete Aflijfa hañ. Eñ sem þeir hafde fullkomnad allt huad af honum vat skrifad/ þa toku þeir hañ ofañ af Trienu / og logdu hañ ofañ j Grofena. Eñ Gud uppvakte hañ fra Daudum/huor og siedur er um marga Da-

ga/ af þeim sem med honum foru af Galilea til Jerusalem/ huorier ad voru hans Vottar/ hia Folkenu. Og vier bodum ydur þad Fyrerheyt/sem til Fedra vorra er skied/ad þad sama hefr Gud uppfyllt vid oss þeirra Sonu/ j þui ad hañ uppvakte JESum.

Þesse Pistill er eirn Partur af þeirre merkelegu Predikun hins heilaga Pals/ sem hañ hafde j Samkundu Gydingaña j Antiochia / j huørre Postuleñ (epter þad hañ hafde med mørgum Ord um leinge talad / um Uppruna edur Utvalning Israels Sona / Sømuleidis um Guds Velgiørninga vid þa) medkieñer z jatar/ ad sa Nadverske JESVS/sem Gydingarner Krossfestu/sie sa sanne Messias / fæddur af Davids Sæde/ epter þui Fyrerheite sem Gud hafde hønum giefed. Og þetta bevysar hañ af Vitnisburde Johañis Skyrara/ sem ecke villde þa Virding af Gydingunum þyggia/ ad vera halldeñ fyrer Messiam/ helldur suarade þeim og sagde. Sa er geingeñ midt a medal ydar/huørn þier þecked ecke/huørs Skofueinge eg em ei verdugur upp ad leysa/ Joh. 1. Og þetta hid sama stadfester Postuleñ hier j þessum Pistle / med Uppprisuñe Herrans Christi fra Daudum/huørrar Vottar/voru hans Læresueinar/og marger adrer/sem um marga Daga med hm̃ umgeinguſt epter hañs Upprisu/ z syner hier j upphafe Pistilsins/ ad Christur z hans eilyfu Velgiørningar/ hafe eigenlega tilheyrt Gydingum / epter þui hañ var komeñ af þeirra Kyne / sem var af

Abraham

Abraham/ huørium Fyrerheited um Christum þad de giefed vered/ sem sieft j Gen. Bokar 22. C. þar so stendur/ J þijnu Sæde skulu allar Pioder a Jørdunne Blessadar verda. Pui er þad Grund vøllur allrar þessarar Rædu Postulans/ ad Gyd ingar skule þui fullkomlega Trwa/ad þesse Mad i verske JEsus sem Krossfestur var j Jerusalem og af Dauda sie uppriseñ/ hañ sie sa sanne Messias/ og af hønum einum skule þeir vænta/ og bid ia um Syndañá Fyrergiefning/Riettlæted og eilift Lijf. Par fyrer seiger hañ so j Tidurlagenu. Vitanlegt sie ydur Goder Brædur/ þad ydur bod ast fyrer þeñañ Krossfesta JEsum/ og af Dauda Vppriseñ/ Syndaña Fyrergiefning / og Frelsun fra øllu þui/ ad huøriu þier gætud ei Riettlætt vorded j Moysis Løgmæle/ eñ huør hañ trwer a þeñañ/ sa er Riettlætur.

## Fyrsta Suñudag epter Paaska/ Pistillenn

1. Johañis 5.

Elskuleger Brædur. Allt huad af Gude er fædt/þad yfervinñur Heimeñ. Og vor Trw er yferviñingeñ/ huør Verølldina yfervinnr. Eñ huør er hñ sem Verølldena yfervinñr/utañ alleinasta sa er trwer/ad JEsus er Guds Sonr? Þesse er hañ/ sa s kiemr med Vatne og Blode/JEsus Christus/Eige mz Vatne alleinasta/ helldur med Vatne og Blode. Og Andeñ er sa sem Vitne ber ad

Anden̄ sie Handleikur/ þuiad þrÿr eru sem Vit
nisburden̄ gießa a Himnū / Faderen̄/ Sonuren̄/
z H. Ande/ z þesser þrÿr eru Eitt. Og þrÿr
eru š Vitnisburden̄ gießa a Jordun̄e / Anden̄/
Vatned/ z Bloded/ z þesser þrÿr eru eitt. Eß
vier mztøkū man̄an̄a Vitnisburd/ þa er Guds
Vitnisburdur meire. Þuiad Guds Vitnis-
burdur er sa/ þad han̄ hefur vitnad aß sÿnum
Syne. Huør han̄ trwer a Guds Son/ sa
heßur þen̄an̄ Vitnisburden̄ j sier.

Sierdeilis er þad þrent / um huad Postulenn
talar j þessum Pistle. 1. Aminner han̄
oss Men̄ina / ad ástunda innbyrdis Kiærleika til
Naungans / so og einnen̄ ad veita Hlydne Guds
Bodordū/ huør Hlydne og Naungans Elska/ eru
þr Avexter/ sem uppspretta z framkoma aß Þeck
ingu Guds/og þeim Kiærleika sem han̄ haßde til
vor. 2. Hrosar han̄ hier verkan og verdug
leika Trwaren̄ar/ sem er ad ßyrer hana alleinasta
ßaium vier yßerun̄ed Heimen̄/ þad er Diøßulen̄/
Ovinena/ Tyran̄a z Oßsoknarmen̄/ og allt Mot
læte/ sem oss kan̄ til ad ßalla. 3. Min̄est Post
ulen̄ a/ med huørium Vitnisburdum Christur ha
ße beuÿsad sig ad vera Guds Son/ og han̄ ßyrer
heitna Messiam / sa ed j uppatekenne Man̄doms
Natturu/ giørdest Forlykunar Offur/ ßyrer Man̄
kynsins Synder/ og haße in̄sett þa heiløgu Þion
ustugiørd Gudspiallegrar Kien̄ingar/ og handtier
ingar / þeirra 2. Sacramenta/ j huørium hann

fram

framðbiodaſt lære Mønnunum ſyna Ðtlyþa Mædar Velgiørninga. Huør ſem nu trwer þeſſare Predik un/ um Guds Son/ hañ verdur Sæluholpeñ/ſem Poſtuleñ ſeiger ſydar j þeſſū Capitula. Huør ſem Guds Son heþur/ſa heþur Lyþed/enn huør hann heþur ecke Guds Son/ſa heþur eige Lyþed.

## Annañ Suñudag epter Paaſka/ Piſtileñ ſkriþar S. Petur 1. Piſtle 2.

Elſkuleger Brædur/ þuiad þar til eru þier kallader/ med þui ad Chriſtur heþur ei ñrnenn lided þyrer oſſ/ og oſſ til Epter dæmis ſæted/ad þier ſkylldud ſo epterþylgia hans Fotſporum. Huor ed ongva Synd giørde/ og eige helldur er nein Flærd þundeñ j hans Muñe. Huør ed ecke þormællte j giegn þa honū var þormællt. Eige Ognade þa hū leid/Eñ oþurgaþ þad honum ſem riett dæmer. Sa er ſialþur heþur vorar Synder bored a ſijn um Lijkama uppa Trienu/ſo ad vier j þra Sy ndunū deyder/liþdum Riettlætenu/þyrer huørs Beniar vier erum Heilbrygder vordner. Þuiad þier vorud ſo ſē Villuræþande Saud er/ Eñ nu eru þier umvender til Hyrders og Byſkups ydvarra Sæalna.

Þeſſum Piſtle þramſetur Poſtuleñ eina merke lega Amiñing/med huørre hñ upphuetur Guds Børn/ad umbera og lijda Kroſſ og Motlætingar

med Poleñmæde / aþ huørium Christeleg Kyrkia þinest/vegna Medkieñingar þess 6. Evangelij.
Þessa sijna Amiñing tekur hañ aþ Epterdæme Christi / huørs ostrassanlega Lijþerne og Þolinn mæde/hañ seiger vier skulum athuga/og syner oss þar jafnframe/ ad Synder vorar hafe vered ord sök til hans Dauda/og þad þess vegna/ad hans Aminiñg skule þui framar þiña godañ stad hia oss/ þar Christur hafe vered ölldungis Heilagur z Sak laus/og hafe fyrer vorar Saker lided z Pijndur vered/ eñ vier vorum þeir sökudu/ sem forþienad höfdum eilijfa Strøffun vegna vorra Synda.
Eñ fiorar eru sierdeilis þær Ordsaker/vegna huør ra Christeleg Kyrkia hlytur Hørmungar ad lijda/ sem er. 1. Ad Syndeñ z Natturuñar Spilling/ deydest j þeim Gudhrædda / eñ þar aptur a mote upptendrist j þeim Trueñ med heñar godum Avøxt um/og Bæna akalled. 2. Vppa þad/ ad Guds Almætte og Godgyrne auglijsest og openberest/siñ hañ audsyner Christneñe j heñar Hørmungum.
3. Ad vier þar m̃ z verdum samlijker Guds Son ar Jmynd j hans Pijnu/ so vier mættum eirneñ verda hönum samlijker j Dyrdeñe / sem Postulenn seiger/ Rom. 8. 4. Vppa þad / ad alltyd þriest Røk og Bevijsingar j Christelegre Kyrkiu/ um þad epterkomanda Odaudlega Lijf/ j huør ju þeir Gudhrædda/ muni hafa eilijfañ Føgnud og Glede/epter afstadnar allar þær Motlætingar sem þeir hafa blotted ad lijda hier j Heime.

## Þridia Suñudag epter Paaska/ Pistilenn skrifar S. Petur 1. Pist. 2. Cap.

Elskuleg

Elskuleger Brædur/ Eg bid ydur lijka sem framande og Vegfarendur / ad þier halldeð ydur fra holldlegum Gyrndum/huoriar j giegn Sælunne strijda. Og hafed goda Umgengne a medal Heideña þioda/so ad þeir sem hallmæla ydur so sem Illvirkium / siae ydar Godverk / og dyrke Gud a Vitiunardeige. Þar fyrer/vered undergiefner allre Mañlegre Skyckan/fyr er Herrans saker/ sie þad Kounungenum/ svo sem hinu nypparsta/ edur Landstiornurunū/so sem af honum tilskyckudum/ til Hefndar yfer Illvirkiana/og godum til Lofs. Þuiad þad er Vilie Guds/ad þier med godum Verkum nidur þagged Oviturleik heimskra Maña. So sem Frelsingiar / og ecke so sem hefdu þier Frelsed Illskuñe til yfirhylmingar/ helldur so sem Guds Þionustumeñ. Veited Virding hu orium Mañe/ Elsked brodurlegañ Kiærleika/ Otteſt Gud/ heidred Kongeñ. Þier Þionustumeñ / vered Herrunum undergiefner med allre Ottaseme/eige alleinasta godum og Spakferdugum/ helldur einneñ breckvijsum. Þui þad er Nad/ ef nockur fyrer Samvitskuñar saker til Guds/ þoler hid jlla/ og umlijdur þad O-riettа. Þui huor hrosan er þad/ef ad þier fy

rer Misgiørningana saker Slög sijded? Enn nær hier umlijded og poled Ranginde/ þyrer Velgiørda saker/ pad er Nad hia Gude.

HJer i þessum Pistle æminner Postulen oss/ til Gudræknе og godra Trwar Avaxta/ sem eru þesser. 1. Niðurdempun og Deyding holld legra Gyrnda og Tilhneygïnga / og Sidsamleg Vmgeingne med Mønnunum/ huar med Gud ver dur lofadur og dyrkadur / en þeirra Munur til byrgdur / sem lasta Lærdom heilags Evangelij. 2. Hlydnen vid Yfervalldsmennena / og vora Yfirbodara/ huørium skylldugleg ber ad veitt sie Virding og Vndergiefne/ so sem Guds Vmbods mønnum og Gudlegre Skyckun/ og pad bæde vegna Guds Befalningar / so og eirnen vegna þess ad þeir Vndergiefnu mætte behallda Spekt og Roseme/ asamt almennelegum Fride/og ad sa Him neske Lærdomuren mætte godan Frамgang hafa/ og Christelegur Age og Vmvøndun / vid magt halldast a medal Mannanna. 3. Polinmædin i Motlætingunum/ þui pa sem hana stunda/mun Gud pryda og begafa/med æskelegu Verdkaupe i eilijfu Lijfe / sem Christur seiger / Matth. 5. Sæler eru þier / nær Mennerner veita ydur Of sokn þyrer mijnar Saker/þagne þier og vered glad er/ ydur skal þad vel betalast a Himnum. So kenner oss þa sa þyrste Partur Pistilsins / huørnen vier eigum ad breyta vid sialfa oss. Annar/huør nin vier eigum ad skycka oss vid Yfervalldid. Hin þridie / huørnen vier eigum ad hegda oss vid vora Qvinne og Ofsokнara/ sem er/ ad vier keum

ecke Hef

ecke Hepndargyruger. Og j þessum þremur Pøre
um edur Greinum/er jnnibaled allt Lyþerne eins
Christens Mans/j so myked marta/ sem Løgmaal
sins Vmvøndun og Hlydne hid ytra vidvyfur.

## Fiorda Suñudag epter Paaska / Pistilenn skrifar S. Jacob 1. Cap.

Elskuleger Brædur. Øll god Giøf/ og
øll fullkomleg Giøf kiemur ad ofann/
fra Fødurnum Liossens/ hia huørium er
eingeñ Vmskipting/ nie Breyting Liossens &
Myrkursins. Huiad hñ hefr gieted oss Sialfs
kraþa/ fyrer Sañleikans Ord/ ad vier sieum
Frumburdur hans Skiepnu. Fyrer þui Bræ
dur mijner Elskuleger/ sie huør Madur fliot-
ur til ad heyra/ eñ tregur til ad tala / og til
Reide tregur / Huiad Mañsins Reide verkar
ecke Guds Riettlæte. Þar fyrer aflegged all
añ Ohreinleik/ og Nægd Illskuñar/ og med-
taked Orded med Hogvære/ þad j ydur er rot-
sett/ huad ed ydar Sæler kañ hialplegar ad
giøra.

Vpphaflega j þessum Pistle/ setur Postuleñ oss
fyrer Sioner/ huør ad sie Høfundur og Ordsøk
allra godra Giafa/ andlegra og lijkamlegra j Chr
istelegre Kyrkiu/ sem er sialfur Gud/ sa ed alla
Hlute hefur skapad/ og vidhelldur þeim / huørs

vegna

vegna vicr eigum j Trwne ad vænta/og af hønum ad beidast allra godra Hluta/ huørt helldur þeir vidvijkia Saalu edur Lijkama. Þar næst amin er han oss/ ad vier skulum ydka og athuga Guds Ord/ huørs fagra Lios og Lioma/ hann en nu upptendrar og skijna lætur/ og þar med samansaf nar sinc Christne og endurfæder hana til Arfþøku eilijfs Lijfs/ huad vissulega er eitt af þeim Him nesku og stærstu Guds Velgiørningum / og vill Postulen/ ad vier skulum þetta gaumgiæfelega at huga/virda og a lopt hallda/Guds Pionustugiø ørd efla og styrkia/ og goda Sidseme stunda/ so þetta andlega Lios/ slokne ecke aptur ad nyu/fyr er Osamþycke/ Reide z Practaner a medal Saf nadarins/. Ad sijdustu/bydur hn oss ad stunda Endurnyung Lifnadarens/ þ er/ allshattadar godar Dygder / Hreinlæte/ Skijrlijfe / Hogværd/ Sparneytne / og anad þuilijkt / huørtar Dygder eru Avexter Predikunarenar þess heilaga Evan gelij/ hia þeim Trwudu / þui heilagur Ande sem veitest fyrer utvortis Kienningu Guds Ords/ er frøptugur j Guds Barna Hugskotum / og upp tendrar j þeim Trwna/fyrer huørta vier verdum wt af Mannanc Kiettlæter/ þad er/ Gude þecker og þægeleger / vegna Medalgangarans JESV Christi/sa og eirnen Hugskoten endurnyar/ svo j þeim uppørfast nyar Hræringar/ sem Guds Løg maale eru samhlioda.

---

## Fimta Sunnudag epter Paaska/ Pistilen skrifar S. Jacob 1. Capitula.

Kiærer

Kiærer Brædur/ Vered giørendur Orð ſins/ eñ ecke alleinaſta tilheyrendur/ þui at med þier ſialþa ydur a Tælar draged. Þui ad eþ nockr er Orðſins Tilheyrare/ eñ ecke Giørare/ ſa er lijkur þeim Manne/ ſem ſijna lijkamlega Aſionu ſkodade j Speigle. Þui ept er þad hañ haþde ſkodad ſig/ gieck hañ burt/ og jaþnſnart gleymde hañ huørneñ hñs Yþerlitur var. Eñ huer j gegnum ſkodar hid algiørda Logmaal Frelſeſins/ og ſtadnæmeſt þar jñe/ og er ecke þorgleymanlegur Heyrare/ helldur Giørningſins giørare/ ſa ſame mun hialplegur j ſijnu Verke. Og eþ nockur a medal ydar lætur ſier þykia/ ad hñ ſie Gudrækeñ/ og temur ecke ſijna Tungu/ helldur þorvillir ſitt Hiarta/ þeſſ Gudrækne er Hiegome. Enn ſkiær & Oþleckud Gudrækne þyrer Gude Fodur/ er þeſſe/ ad vitia Eckna og Fedurlauſra j þeirra Hormungum/ og ſig ſialþañ ad geima þleckl auſañ þra Heime þeſſum.

SO ſem Poſtuleñ Jacob j næſt þyrerþarande Suñudags Piſtle/ aminte alla þa / til Endurnyungar Lijþdagaña / og godra Trwareñar Avaxta/ ſem þyrer Medalgangarañ JEſum Chriſtum/ haþa wt aþ Nꝛꝛdeſſe þeinged og ødlaſt Syndaña Fyrergleþning/ Riettlæted og eilijþt Lijþ/ ſo giører hañ og ſo j þeſſa dags Piſtle/ eñ Straffar

og æuvgtar þa/sem sig þar af stæra / ad þeir sieu Christner/ alleinasta þess vegna/ ad þeir wt vortiu medkienā Christi Lærdom. Þetta hid sama er vølsk og røng Meining/og myked Hyrduleyse/ sem mørgum vylger/þt ein søñ Trw a Evangelio er krøptug vyrer Godverkeñ. Þar vyrer huørier hellst sem athugalauslega kraūpara j Syndunum og ecke auglysa sijna Trw med godum Verkum/ sem Gud beþalar j sijnu Orde / þeir eru ecke enn þa Endurþæddér þ heilagañ Anda/sem krøptugur er j Mañaña Hiørtum/ deydande hollðlegar Gyrn der/ og styrkiande til allskonar godra Verka/ af huørriū Postuliñ upptelur hier nockur/ so sem er/ ad Trwa Evangelio / vera stadfastur vid sijna Jatningu/temia sijna Tungu/vitia Ekna og Fød urlausra/ j þeirra Hørmungum/ og vardveita sig sialfañ ofaurgadañ af þessum Heime.

## A Vppstigningar Dag/Pistell. j Giorn- Bok Postulanna I. Capitula.

Jnn fyrra Bokmæla giorda eg ad sonnu um allt þad / þu Theophile sem JEsus hof upp ad giora/ og Kieña/allt til þess Dags er hñ vard uppnumeñ/epter þad hañ hafde fyrer heilagañ Anda kuñgiort Postulunum/huøria hañ haf de og wtvaled/ huør um hañ tiñde sialfañ sig Lifande epter Pijsl sijna/ med marghættudum Bevijsingum/ og liet þa siaa sig um fiorutyg-

er Daga / talande vid þa um Guds Rijke. Og sem hañ hafde samansafnad þeim / baud hañ þeim / ad þeir fære eige wt af Jerusalem / helldur ad þeir skylldu bijda epter Fyrerheite Fodursins / huort þier (sagde hañ) hafed af mier heyrt. Þuiad sañlega skijrde Johañes j Vatne / eñ þier skulud med Heilogum Anda skijrder verda / eige langt epter þessa Daga. Þar fyrer / þeir sem þar til samans voru / spurdu hañ ad seigiande. Herra villtu-nu a þessum Tijma upp riretta Israels Rijke? Eñ hañ sagde-til þeirra. Þad er eige ydart / ad vita Stund eda Punct Tijmaña / huoria Faderen hefer sette j sialfs sijns Vallde / helldur munu þier odlast Krapt heilags Anda / þess er yfer ydur mun koma / og þier skulud mijner Vottar vera til Jerusalem / og j ollu Gydinga Lande & Samaria / & allt til hins ytsta Jardar Enda. Og er hañ hafde þetta sagt / vard hann þeim asiaondum uppnumeñ / og Skyed tok hañ fra þeirra Augum. Og þa þeir horfdu epter honum uppstijganda til Himens / Sia / tuo tueir Menn stodu hia þeim j huijtum Klædum / huorier ed sogdu. Þier Meñ af Galilea / til huors stande þier hier / og horfed upp j Himeneñ? Þesse JEsus sem uppnumeñ

er fra

er fra ydur til Himens/ hañ mun so koma/ lijka sem nu sau þier hañ til Himens farandа.

GVdspiallamadureñ S. Lucas / syner hier j upphafe Postulaña Giørningabokar/ so sem j einu stuttu Agripe / þad hñ hafde ꜳdur fyrre/ med mørgum Ordum j siñe Gudspiallabok/ skrifad bæde um Kyñernis hꜳttu og Lærdom Messiæ edur Christi/ huør j Hollдenu auglysteſt/ sem er/ um hans Mañdomlega Nꜳtturu/ Kieñingar og Kraftaverk/ Pijnu/ Dauda og Vpprisu/ og med þu þrium Bevysingum/ Herrañ Christur hafe augliosлega openberad synum Lærisueinum / ad hañ hefde af Dauda upprised/ þar hañ umgieckst med þeim/ og talade vid þa j heila 40. Daga/ um sitt andlega Rijke. J añañ mꜳta fraskyrer hier Gudspiallamadureñ/ huørsu Herrañ Christur hafe befalad synum Lærisueinum/ ꜳdur eñ hañ uppsteie til Himens / ad þeir skylldu ecke vijkia ut af Jerusalem/ helldur ad þeir skylldu þar sameiginlega bijda/ epter medtekningu heilags Anda/ sem hañ hafde þeim heited/ huørn þeir skylldu ødlast og yfer þa koma a Huijtasuñu Deige helgum.

J þridia mꜳta syner hañ/ huad mykell Breyskleike og Fæfrꜳde/ hafe fylgt Christi Lærisueinū/ jafnvel epter þad / hañ var fra Daudum upprisen/ ad þeir høfdu ecke riettа Þecking um Rijked Messiæ/ þar þeir meintu / þad munde verda Lijkamlegt edur Verалldlegt/ j huøriu Christur og þeir/ munde verda stiornendur yfer øllum Heimenum/ og underþryckia þa Romversku/ af huørium Gydingar/ høfdu þa um nockra Tyma þiꜳder og

underð

und. rokader vered. Þessa Lærdsueinaña rænga Meining um sitt Rijke/ straffar Christur hier/og seiger þad sie eitt andlegt Rijke / j huøriu þeir skule pyrer Predikun þessheilaga Evangelij/saman safna Christelegri Kyrkiu af mañlegu Kyne/ um allañ Heimeñ/ Og til þess/ ad þeir kuñe þad þarsælega ad þramkuæma/þa loþar hñ þeim Heilögum Anda. J Fiorda mata seiger Gud spiallamadureñ huørnñ Christur hafe til Himens uppstijged/ sem er/ Skyed hafe teked hañ þra þeir ra Augum/og tueir Einglar hafe hia þeim stadid sem Predikudu þyrer þm/ um þa adra Apturkomu Christi a sijdasta Deige/ ad Dæma lifande Menn og dauda/huar med þeir villdu Huggad hafa Lærdsueinana/og alla Christelega Kyrkiu/ad Christur munde einhuørn Tijma apturkoma / og sijna mæddu og þiadu Christne / af øllum þessa Lyfs Hörmungum/ fullkomlega Frelsa / og til sijn jnn taka j Himnarijke/huørt hañ sialþur / sem er Safn adarens. Hefud/være nu komeñ/og heþde uppstyg ed/ eñ þo samt og ædur/være Christur ecke ydur laus a Himnum þangad til/ helldur munde hann samansafna sier Daglega Christelegre Kyrkiu/þyrer Predikun H. Evangelij/ Bænheyra hana/þyrer giefa hefie Synndernar/ vardveita og þorsuara ha na dæsamlega/ og siñ Himneska Fødur þyrer hene bidia / og ad hans Rijke j þessum Heime / sie eitt andlegt Rijke / so sem Spameñerner hafe ædur þyrersagt.

## Siötta Suñudag epter Paaska/ Pistilenn skrifar S. Petur 1. Pistle 4. C.

